# Brottfarar-stef

til

Syslumans Þórdar Sveinbiörnssonar

og

Adjúnctus Biörns Gunnlaugssonar

í

Samsæti Islendínga í Kaupmanna-

höfn þann 20ta Maj 1822.

Kaupmannahöfn.
Prentad hiá Þorsteini E. Rangel.

Lagid: Elldgamla Isafolld etc.

Hvad veldur hornalá?
Hví skeinkir miödinn á
Öld Isalags?
:|: Greidt hefir götu tveim
Giæfan og flytur heim,
Oskum því allir þeim,
Anægiuhags. :|:

Missum vid merka tvo;
Mælir vort félag svo,
Sárt saknar því;
:|: Enn kiætast aptur má,
Isafolld fagri á
Blómgast og betri fá
Bústadi á ný. :|:

Fyrrt þó oss forlög stryd,
Fyrst hafi nú um hryd
Sión sæmdra dád;
:|: Gledjumst vid giæfu þá,
Greiddist þeim fliótt ad ná,
Bidji hvör best sem má,
:|: Blessist þeim lád. :|:

Fiallkona fagni þeim,
Flytji byr þægur heim,
Seglfákur, sær;
:|: Allt stydji ört þartil,
Osk þeirra gángi í vil,
Svo frægust fái skil
Fiarlægt sem nær. :|:

Fósturjörd felum svo
Firda oss kjæra tvo,
Unni þeim allt.
:|: Blómgist þeir, blómgist lád,
Batni æ þeirra rád,
Eblist hvör af þeim dád,
Oskast ávallt. :|: